*Arðrændir og kúgaðir allra landa - sameinist!*



# VERKALÝÐSBLAÐIÐ

*Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)*

18. tbl. 4. árg. 3. október - 17. október 1978

## Kappræðufundirnir að hefjast

5.OKTÓBER: SAMEINING - ÍSLENSKRA KOMMÚNISTA.

Fimmtud. 5. október er fyrsti kappræðufundur EIK - (m-l) . Verður hann haldinn að Hótel Esju, 2.hæð, og hefst kl. 2o.3o. Fundarefni verður "Sameining íslenskra kommúnista í einn flokk". Frummælendur verða frá Einingarsamtökum kommúnista(marx-lenínista), og fulltrúi "Kommúnistaflokks Íslands/ Marxista-lenínista". Framsöguræður munu taka 3o mínútur hvor, en að þeim loknum verður skemmtiatriði. Nefnist það "Svipmynd úr framtíðinni" og er eftir Guðmund Sæmundsson, sem þáði boð EIK(m-l) um að standa fyrir menningarefni þessa fyrsta kappræðufundar. Að sögn höfundar er þetta einhvers konar sambland leikþátts, upplesturs og söngs. Að þessu atriði loknu hefjast almennar umræður, sem allir geta tekið þátt í, en framsögumönnum er þó tryggður réttur til að taka þrisvar til máls í þeim, fimm mínútur í hvert sinn.

Framhald bls. 5

## Verkfall við Akureyrarhöfn

# Einingarformaðurinn til viðtals eftir jól !

20. september s.l. stöðvuðu hafnarverkamenn Eimskip á Akureyri afgreiðslu á Brúarfossi, sem taka átti farm af freðfiski frá Útgerðarfélagi Akureyringa.

Það er krafa verkamanna, að útskipun freðfisks verði greidd eftir ákvæðisvinnutaxta sem m.a. gildir við aðrar hafnir við Eyjafjörð. Um það var Eimskip ekki til viðræðu og fór því skipið fisklaust frá Akureyri.

Framhald bls. 7



## Kjara skerðingar nefnd

Á dögunum var barin saman "vísitölunefnd" á vegum ríkisstjórnarinnar. Í þessari nefnd sitja fulltrúar ýmissa aðila, þar á meðal atvinnurekenda, allra borgaralegu flokkanna og aðalsins í ASÍ, BSRB og BHM.

Tilgangur nefndarinnar er sveipaður ýmsum fögrum orðum, en hann fer þó vart milli mála þeim sem á vilja horfa. Nefndin á að finna færar leiðir til að lækka kaup fólksins. Finna leiðir sem ekki ber mikið á gagnvart alþýðu fólks, en hafa þó sín áhrif. Þessi nefndarskipun ber því í brjósti sér þá kjarastefnu sem núverandi ríkisstjórn ætlar að fylgja í framtíðinni: stefnu kjaraskerðinga og launalækkana. Íslenskur verkalýður getur því strax farið að búa sig undir næstu hrinu. Kjararán ríkisstjórnarinnar frá fyrstu dögum hennar verða ekki látin nægja.

Frh. bls. 7



Niðurskurður

## BÚR

## Bónuskerfið samþykkt

Í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins var greint frá því að til stæði að koma á bónuskerfi hjá Bæjarútgerð Reykjavíkur. Þetta hefur nú gerst. Þann 19. september var haldinn fundur með starfsfólkinu, þar sem greidd voru atkvæði um, hvort taka bæri upp bónuskerfið. Á fundinum var talsverð andstaða við fyrirætlanir stjórnar fyrirtækisins og verkalýðsforystunnar. Margir höfðu reynslu af því að vinna við slíkt kerfi annars staðar og óskuðu hreint ekki eftir því að það yrði tekið upp í BÚR. Andstaða þessi var þó brotin niður. Munaði þar mestu að svonefndir "bónustrúnaðarmenn" höfðu fram að fundinum fengið ýmsa skemmtan af málinu, m.a. ferðalög á aðra vinnustaði, þar sem bónus var við lýði. Þar fengu þeir að hlusta á lofgerðir forstjóra og verkalýðspostula um kerfið og ágæti þess, og voru orðnir sannfærðir um að þetta kerfi yrði til mikilla hagsbóta fyrir verkafólkið. Á fundi starfsfólksins í BÚR voru þeir því fylgjandi kerfinu. Atkvæði féllu þannig, að 96 greiddu atkvæði með því að bónusinn yrði tekinn upp, 61 var á móti og 5 sátu hjá eða greiddu ógild atkvæði.

Starfsmaður sem tíðindamaður VB ræddi við, sagði að enginn vafi væri á því að tillagan um bónusinn hefði ver-

Framhald bls. 5

# Camp David samkomulagið herbragð Carters

Carter forseti Bandaríkjanna er drjúgur með sig eftir undirritun samninganna í Camp David. "Friðarpostulanum" tókst að koma á eins konar sérsamningum á milli Egyptalands og Ísrael, og kljúfa þar með Arabaheiminn.



Eftir undirritun Camp David samninganna 17.sept., er ljóst að samningaviðræður Sadats, Begins og Carters hafa ekkert að bjóða Palestínuaröbum, og eru þar af leiðandi engin lausn mála fyrir botni Miðjarðarhafs. Þvert á móti virðast samningarnir miða fyrst og fremst að sér samkomulagi milli Ísraels og Egyptalands. Í samningunum er ekki einu orði minnst á Frelsissamtök Palestínuaraba, PLO, og er Sínaískaginn eina svæðið sem fjallað er um, sem hertekið er af síonistunum.

Framhald bls. 4/5

## TIL BARÁTTU GEGN KREPPU AUÐVALDSINS

2

Áskrift greiðist á gíró nr. 12 200 - 9

VERKALÝÐS BLAÐIÐ



# TIL BARÁTTU GEGN KREPPU AUÐVALDSINS

A. Inngangur.

Þessi ályktun fjallar um efnahagslega og pólitíska kreppu íslenska auðvaldsskipulagsins. Hún er leiðbeining fyrir starf EIK(m-l) til áramóta 1978-1979 og fyrir alla baráttusinna sem hafna stéttasamvinnunni og forræði fölsku verkalýðsforingjanna í baráttu gegn auðvaldinu.

B. <u>Sérkenni íslenska auðvaldsskipulagsins.</u>

Þjóðfélagið er <u>á stigi einokunar</u>. Það merkir m.a. að einokun í efnahagslífi er vaxandi og ráðandi eins og sjá má af starfsemi SÍS, Sölumiðstöðvar hraðfrystihúsanna, Flugleiða, Eimskip, og fleiri fyrirtækja. Samtímis er ríkisvaldið að nokkru hluti einokunarauðvaldsins með hlut í einkafyrirtækjum og með eigin einokunarfyrirtækjum, svo sem Sementsverksmiðjunni og Áburðarverksmiðjunni.

Einokun merkir einnig að fjármagnsútflutningur er mikilvægur, sem sést í tugmilljarðaveltu auðhringa eins og Coldwater (SH) í Bandaríkjunum. Einokunarstig merkir ennfremur að stór hluti auðmagnsins er runninn saman við eða stjórnað af bönkunum, en þeir eru velfrlestir ríkisbankar. Mismunandi samsettar ríkisstjórnir breyta á engan hátt einokunarstöðu eða hlutverki ríkisvaldsins.

Íslenska efnahagslífið – þ.á.m. framleiðslan er fremur einhæf og því viðkvæm fyrir sveiflum, bæði innlendum og erlendum. Efnahagskerfið er líka smátt í sniðum og eykur það enn á viðkvæmnina og veikir samkeppnishæfni auðvaldsins gagnvart auðvaldi annarra landa.

Verðbólgan er mjög hröð, 40-50% árlega sl. ár.

C. <u>Hvað er kreppa?</u>

Atvinnurekendur, handhafar auðmagns og bandamenn þeirra innan og utan ríkisvaldsins eru ríkjandi stétt landsins – <u>borgarastéttin</u>.

Hún telur innan við 5% þjóðarinnar, og lifir á því að tileinka sér stærstan hluta arðsins sem verður til með vinnu verkafólksins og annarrar vinnandi alþýðu – hún stundar arðrán.

Markmið borgarastéttarinnar er að tileinka sér sem <u>mestan</u> hagnað – hver atvinnurekandi og auðherra skarar eld að <u>sinni</u> köku. Þannig verður til samkeppni, stjórnleysi og mótsagnir innan efnahags- og stjórnkerfisins. Reglubundnar <u>kreppur</u> hrjá auðvaldsskipulagið. Í kreppunum verður atvinnuleysi, framleiðsla raskast, verðbólgan magnast, kaupmáttur rýrnar, stjórnleysið eykst og upplausn einkennir þjóðfélagið. Með vissu millibili verða kreppurnar djúpar eins og árin 1930-1937. Árin 1971-1974 var ein skammtímakreppan að líða hjá, en árið 1974 hófst ein kreppuþróunin enn. Árin 1975, '76, '77 og '78 hafa öll einkennst af dýpkandi kreppu og virðist svo sem öldudalnum sé enn ekki náð.

Auðstéttin og ríkisvald hennar að meðtöldum öllum ríkisstjórnum, hafa reynt að verjast kreppunni með því að velta sem mestum byrðum hennar yfir á vinnandi fólk.

D. <u>Orsakir og afleiðingar kreppunnar.</u>

Orsakir kreppunnar eru margar – og afleiðingarnar sömuleiðis. Nefnd skulu nokkur mikilvæg atriði sem hér segir:

1. <u>Kauprán og verðhækkanir.</u>

Til að viðhalda eða auka hagnað sinn <u>verða</u> atvinnurekendur að <u>þrýsta</u> framleiðslu og starfskostnaði sem mest niður. Kaup verkafólks og annars launafólks er nærtækast. Það er gert með því að skerða t.d. kauphækkanir og auka framleiðni fólks. Samtímis er verð á vöru og þjónustu oftast hækkað, sérstaklega ef bein kauplækkun er ófær. Verðhækkanir eru bæði til komnar vegna beinna hækkanna innanlands, en einnig vegna verðhækkanna á t.d. rekstrarvörum erlendis, sem látnar eru koma fram innanlands. Verðhækkanir eru helstu meðvituðu aðgerðirnar sem auðstéttin grípur til, til að verjast tapi.

Kaupráninu er oft hagað þannig að meira er tekið af þeim sem hafa hærri launin til að kaupa yfirstéttinni velvilja þorra launafólks og fela léleg kjör undir yfirskini "launajöfnuðar". Þá er miskunnarlaust alið á sundrungu og kjararíg innan verkalýðsstéttarinnar. Kaup hefur hækkað nokkuð undanfarin ár, en hvergi nærri í takt við dýrtíðina. Þess vegna hafa fjárráð alþýðufólks verið knöpp og farið minnkandi, þrátt fyrir aukna vinnu. Minni kaupgeta leiðir svo til samdráttar í vörukaupum og þar með framleiðslu. Óseld vara hrannast upp auðvaldinu til einskis gagns. Þannig magna versnandi lífskjör kreppuna, – ásamt með verðhækkununum.

2. <u>Offramleiðsla</u>

Offramleiðsla er ein orsök kreppunnar og afleiðing. Vegna rýrnandi kaupmáttar minnkar vörusalan. Verðlækkanir á ísl. vörum erlendis, t.d. sumum fisktegundum eða áli, ásamt minnkandi mörkuðum erlendis eiga einnig sinn þátt í offramleiðslunni.

Nú er offramleiðsla greinileg t.d. í fataiðnaði og saltsíldar- og saltfiskframleiðslunni.

Offramleiðslan magnar kreppuna vegna þess að fyrirtæki lenda í rekstrarerfiðleikum eða verða gjaldþrota. Þó reynt sé að færa fjármagn yfir í arðvænlegri framleiðslu verður fljótlega um offramboð þar að ræða því gróðasóknin og stjórnleysið er algjört. Mátti sjá þetta í skuttogarakaupunum í tíð "vinstri" stjórnarinnar sem hjálpuðu auðstéttinni úppúr síðasta kreppudal.

3. <u>Gengissig</u>

Breytingar á verðgildi erlendra gjaldmiðla eru nokkuð stöðugar vegna verðbólgu erlendis. Þær leiða aðvitað til breytinga á ísl. krónunni. En annað atriði er þó mikilvægara. Til þess að viðhalda gróðanum veltir auðvaldið öllum helstu kostnaðaraukum sínum út í verðlagið. Þannig verður dýrara að framleiða og kaupa flestar vörur hér en erlendis. Krónan verður sífellt verðminni miðað við erlendan gjaldeyri – það er hægt að fá minna fyrir hverja ísl. mynteiningu. Afleiðingin er stöðugt gengissig krónunnar. Það er þó ekki skráð rétt jafn óðum svo smám saman verður tilefni til verulegrar gengisfellingar.

Að auki þrýsta útflytjendur á gengisfellingar, því þeir fá þá fleiri íslenskar krónur fyrir hverja vörueiningu sem greidd er í erl. fé og nota sér þær hér t.d. til launagreiðslna sem hækka óverulega.

Ónefnd er mynt- og seðlaútgáfan.

Einn angi verðbólgunnar verður til við það þegar gefnir eru út peningar sem ekki eru verðtryggðir nema að litlu leyti, (þ.e. væru allir peningar "leystir inn", væru ekki til verðmæti hjá ríkisbönkunum sem næmi gildi (verðmæti) þeirra nema að litlu leyti). Þegar t.d. Seðlabankinn ákveður að gefa út 2 milljarða kr. í seðlum án fullrar tryggingar, minnkar <u>heildarverðmæti</u> allrar seðlaveltunnar. Krónan verður verðminni en áður og verðbólgan eykst.

4. <u>Fjárfestingar.</u>

Auðvaldið beitir fyrir sér ríkisvaldinu til aðstoðar við fjárfestingar. En þær eru miklar á Íslandi vegna verðbólgunnar. Ríkið leggur einnig fram styrki og hagstæð lán sbr. marga milljarða kr. gengishagnað í sept. sem færður var frystiiðnaðinum. En einkahagsmunir stjórna þó fjárfestingunum þegar á heildina er litið. Stór hluti fjárfestinga er í óarðbærum geirum, en annar í framleiðslutækjum. Þetta er stjórnlaus útþensla þannig að ekkert samræmi verður milli fyrirtækja – eitt verður gjaldþrota meðan annað eflist sbr. "Ísbjörninn" í Reykjavík sem fjárfestir fyrir hundruði milljóna mitt í "taprekstri" sínum og lokunarsyrpu annarra frystihúsa. Ekki má gleyma gífurlegri einkaneyslu borgarastéttarinnar.

Fjárfestingar magna sem sagt kreppuna annars vegar, en ýta þjóðfélaginu tímabundið uppúr öldudalnum, meðan framleiðsluaukningin gefur tímabundna kauphækkun.



Oft er þörf, en nú er nauðsyn, að sýna auðvaldinu hnefana! Ungt fólk á Dalvík hefur búið til risastóra mynd af baráttutákninu, krepptum hnefa, utan á nýja húsið sitt. Er það ekki tímanna tákn?? (Mynd: VB)

E. <u>Einokunarþróunin</u>

Með kreppuþróuninni á sér stað aukin einokun stórfyrirtækjanna. Þau hafa best tengsl við ríkisvaldið, þola mesta erfiðleika og eiga hluta auðmagns síns erlendis. Einokunarauðhringirnir nota sér markvisst erfiðleika smærri fyrirtækja og gleypa þau sbr. Flugleiði og smærri flugfélögin. Þeir geta líka notað sér betur gengisfellingarnar vegna mikils útflutnings og starfsemi erlendis.

F. <u>Baráttan gegn kreppunni</u>

Verkafólk og önnur vinnandi alþýða á í einu og öllu andstæða hagsmuni við auðvaldið og ríkisvald þess. Alþýðan býr ekki til kreppuna og hún verður að þvinga auðvaldið með baráttu til þess að borga kreppuna sjálft. Um leið nær alþýðan fram breytingum og bótum sér til handa. Aðalstarfsvettvangurinn er <u>utan</u> stofnanna ríkisins – í <u>baráttu</u> fjöldans sjálfs innan stéttarfélaga, annarra alþýðusamtaka og á vinnustöðum.

En barátta þessi getur <u>ekki bundið enda á</u> kreppurnar og arðránið nema hún sé liður í afnámi auðvaldsskipulagsins, umbyltingar ríkisvaldsins og uppbyggingar sósíalismans.

EIK(m-l) setja fram kröfur og baráttuleiðbeiningar á grundvelli stéttabaráttunnar og standa eftir getu í forystu fyrir baráttunni.

a. GEGN KAUPRÁNI

Taka verður afstöðu gegn skerðingu umsaminna vísitölubóta og krefjast að grunnkaup félaga ASÍ, BSRB og annarra stéttarfélaga nái kaupmætti svipuðum og í <u>febrúar 1974.</u>

Kröfurnar eru:

+ Fullar vísitölubætur á öll laun sem svara leiðréttingu vegna dýrtíðar.
+ Burt með vísitöluþakið.
+ Beina skatta, áfengi, tóbak fullan bíla- og húsnæðiskostnað inn í vísitöluna.
+ Lægstu laun félaganna verði 180.000 kr. á mánuði, en eftir- og næturvinna greiðist með tvöföldu dagvinnukaupi.

b. GEGN SAMNINGSROFI OG ÁRÁSUM Á RÉTTINDI VERKAFÓLKS

Taka verður afstöðu gegn framlengingu kjarasamninganna og endurskoðun vinnulöggjafarinnar.

Kröfurnar eru:

+ Nýja kjarasamninga án tafar eftir að núverandi kjarasamningar eiga að ganga úr gildi skv. þeim.
+ Samningana í hendur sérsambanda og stéttarfélaga. Engin afskipti ríkisvaldsins af gerðum kjarasamningum.
+ Gegn endurskoðun á vinnulöggjöfinni frá 1938, enga skerðingu á verkfalls- og samningsréttinum.
+ Fullan samnings- og verkfallsrétt til aðildarfélaga BSRB, BHM og Iðnnemasambandsins.

c. GEGN ATVINNULEYSI.

Taka verður afstöðu gegn uppsögnum og fækkun starfsfólks hvarvetna. Krefjast verður nægrar atvinnu handa öllum, sérstaklega æskunni og konum. Einnig ber að styðja baráttu bænda og sjómanna fyrir sínum kjörum og baráttu námsmanna gegn kjaraskerðingum ríkisvaldsins.

Helstu kröfur eru:

+ Engar uppsagnir – trygga atvinnu handa öllum.
+ Auknar atvinnuleysisbætur.
+ Gegn "hagræðingu" sem bitnar á vinnandi fólki.
+ Auknar fjárveitingar til leiguhúsnæðis, dagvistunar og samgangna.
+ Tryggar lágmarkstekjur til bænda og sjómanna.
+ Jafnan rétt til náms.

d. GEGN SKATTAOKRI.

Taka verður afstöðu gegn auknum skattaálögum á alþýðu og krefjast frekara afnáms óbeinna skatta.

Kröfurnar eru:

+ Burt með vörugjald á neysluvörur.
+ Burt með "lúxusskatt" ríkisstjórnarinnar.
+ Hækkun skattfrjálsra tekna, afnám eignaskatts á íbúðarhúsnæði vinnandi alþýðu, hærri hátekju- og stóreignaskatt. Fullan tekju- og eignaskatt á öll fyrirtæki og eigendur þeirra.

e. GEGN SAMDRÆTTI OPINBERRAR ÞJÓNUSTU.

Taka verður virka afstöðu gegn niðurskurði opinberrar þjónustu á sviði menningarmála, heilbrigðismála og félagsmála.

G. <u>Leið samfylkingarinnar.</u>

Í sérhverju máli verða félagar og baráttusinnar að kynna <u>baráttustefnuna</u> á vinnustöðum, í skólum og samtökum, setja fram kröfur með fjöldanum og skipuleggja aðgerðir þar sem það er unnt. Verkföll, hægagangsaðgerðir á vinnustöðum og aðrar kröfuaðgerðir eru aðferðir til árangurs. Afhjúpa verður stéttasamvinnuforingjana, hindra afskipti þeirra og tryggja að lýðræði meðal fjöldans og góð stjórn aðgerða sé til staðar.

18. sept. 1978

Framkvæmdanefnd miðstjórnar.



# Gerum stéttarfélögin að baráttutækjum

## Stjórn Flugleiða: KAUPIR BREIÐÞOTU -OG REKUR 20 MANNS ÚR VINNU!

### Hvers vegna þegir Þjóðviljinn?

Stjórn Flugleiða-hringsins hefur verið atorkusöm undanfarna daga. Með fárra daga millibili tilkynnti hún um ákvörðun sína um að kaupa heljarmikla breiðþotu fyrir millilandaflug Loftleiða, og svo þá ákvörðun að reka úr starfi um 20 starfsmenn Flugleiða sem eru 67 ára og eldri - yfirgnæfandi meirihluti þeirra er fólk með fulla starfsorku! Sögðu stjórnarmenn að hér væri fylgt fordæmi frá öðrum flugfélögum". Eins og nærri má geta munu fyrrgreindir starfsmenn verða illa á vegi staddir um áramótin, ef Flugleiðastjórnin fær að komast upp með ósvífni sína. Örðuglega mun reynast fyrir þá að fá nýtt starf og eftirlaunagreiðslur úr lífeyrissjóðum verkalýðsfélaganna fá þeir ekki fyrr en þeir ná sjötugsaldri. Þá er aðeins upp á að hlaupa smánargreiðslurnar sem nefnast "ellilífeyrir", en þær nema nú kr. 44.400 á mánuði! Forystumenn viðkomandi verkalýðsfélags hafa látið hafa eftir sér í fjölmiðlum að "málið verði tekið föstum tökum" , en víst er að það gerist ekki nema launafólk hjá Flugleiðum og víðar láti rækilega í sér heyra og styðji starfsmennina 20 í því að hrinda uppsögnunum.

ÞÖGN OG AFTUR ÞÖGN

Sáralítið hefur verið skrifað í blöðin um mál þetta, aðeins sagt frá helstu staðreyndum. Þjóðviljinn tók þó svo stórt upp í sig að segja, að "stjórn Flugleiða hafi nú skapað nýtt fordæmi hérlendis" og að"mikil óánægja sé ríkjandi meðal starfsfólks félagsins með þessa ráðstöfun" (Þjv. 21. sept.). Ekki eitt orð um fordæmingu á aðgerðunum eða hvatningu um stuðning um stuðning við baráttu starfsmannanna 20. Mörgum kann eðlilega að finnast kynlegt að m.a.s. Þjóðviljinn skuli ekki hnýta í Flugleiða-stjórnina einu orði fyrir tiltækið. En þá ber að hyggja að fjárhagslegum tengslum dagblaðanna og Flugleiða-mafíunnar. Öll blöðin, Þjóðviljinn ekki undaskilinn, eru á óskjalfestum samningi við Flugleiðir um að birta allt sem Flugleiðir fara fram á að fá birt. Í staðinn fá blöðin drjúgan afslátt á flugfari innanlands og utan fyrir blaðamenn og útgefendur, auglýsingar fyrir ótaldar milljónir árlega o.s.frv. Ef svo illa vill til að inn í blöðin komast fréttir þar sem á einhvern hátt er hallað á Flugleiðir, þá er snarlega kippt í spotta. Þeir Þjóðviljamenn vissu því mæta vel hvað það hefði þýtt ef lesa hefði mátt stuðning blaðsins við starfsmennina 20 út úr fréttinni um uppsögnina. Þá hefði verið snarlega hringt á auglýsingadeild blaðsins og tilkynnt um "breytingar" á áætluninni um Flugleiðaauglýsingar á næstunni og/eða Sveinn Sæmundsson, blaðafulltrúi Flugleiða hefði hringt á ritstjórnina og sagt: "Góðan daginn, þetta er Sv. S. Ég ætla að láta ykkur birta athugasemd við fréttina í blaðinu í dag". Og enginn þarf að ætla að Þjóðviljamenn óhlýðnist þegar húsbóndinn hefur talað!




## Stundakennarar við Háskólann: Viku verkfall í nóvember

Samtök stundakennara í Háskóla Íslands héldu þann 25. september félagsfund til að ræða um viðræður félagsins við ríkisvaldið og taka ákvarðanir um áframhaldandi aðgerðir í kjara- og réttindamálum stunda kennara. Eins og greint var frá í síðasta blaði, er atvinnuöryggi þessa hóps, sem sér um meira en helming allrar kennslu við Háskólann, ákaflega slæmt, og kjör þeirra harla bágborin. Ríkisvaldið hefur sýnt Samtökum stundakennara megnustu lítilsvirðingu, og það var ekki fyrr en síðla sumars sem fjármála- og menntamálaráðuneyti tóku í mál að ræða við fulltrúa félagsins. Þær viðræður eru farnar út um þúfur, þar sem ríkisvaldið neitar að fallast á eina einustu af meginkröfum félagsins. Eina framlag ríkisins var að bjóða eitthvað betri kjör til þess hluta stundakennara, sem hefur stundakennslu að aðalstarfi eða eina starfi, en þeir eru mjög fáir. Með þessu átti að gera tilraun til að koma upp sundrungu í hópi stundakennara. Á fundinum 25. sept. var samþykkt tillaga þess efnis að vísa á bug öllum slíkum tilraunum.

Á fundinum var samþykkt að efna til viku verkfalls í byrjun nóvember nk. Er þetta hugsuð sem fyrsta aðgerð. Beri hún ekki árangur, verður gripið til enn harðari aðgerða. Reynt verður að efna til samstöðu með öðrum sem starfa og nema við Háskólann, með það að markmiði að allt starf í Háskólanum lamist þessa viku, eða a.m.k. hluta hennar.

Aðgerðir þessar eru boðaðar á grundvelli nokkurra lágmarkskrafna, sem ekki er unnt að semja um á nokkurn hátt. Annað hvort verður ríkisvaldið að fallast á þær, eða sætta sig við harðar og langvarandi truflanir á kennslu af völdum

Framhald á bls. 7

## Samningar eru lausir: Knýjum fram bætt kjör!

Samningar langflestra verkalýðsfélaga hafa verið lausir allt frá í vor. Margir spyrja, hvað er framundan? A.m.k. eitt er ljóst, forysta ASÍ ætlar ekki að nota næstu vikur og mánuði til að knýja fram betri samninga. Í leiðara seinasta tbl. Vbl., kom fram að ríkisstjórnin hefði framlengt kjarasamninganna með lagaboði um óákveðinn tíma. Þetta er ekki alls kostar rétt, þó vissulega hafi þetta verið ætlun núverandi ríkisstjórnar í fyrstu.

Það á að nota miklu hljóðlausari aðferðir, sem sé að semja við uppkeypta forystu ASÍ um að framlengja samningana um ár, samninga sem voru mikið fráhvarf frá upphaflegum markmiðum þegar þeir voru gerðir, auk þess sem kaupið rýrnar stöðugt vegna ófullnægjandi verðtryggingar.

VERÐTRYGGINGIN

Ríkisstjórnin hefur ákveðið, að endurskoða vísitölugrundvöllinn fyrir 1. des. næstkomandi. Líkur benda til, að þeirri endurskoðun verði þannig háttað, að ýmsum kostnaðarliðum verði kippt út úr verðbótavísitölunni og það fóðrað með því að um"lúksus" sé að ræða. Sambærilegt gerðist í tíð "vinstri" stjórnarinnar vorið '74. Þá var t.d. brillinn tekinn út úr vísitölunni og rökin voru einmitt þessi.

TOPPARNIR Í VERKALÝÐSHREYFINGUNNI

ASÍ forystan hefur alltaf skilið nauðsyn þess "að rétta við hag þjóðarbúsins", þegar "vinstri" stjórn fer með völdin. Hlutverk ASÍ forystunnar í þessum leik er að halda frumkvæðinu og öllum ákvarðanatökum í sínum höndum, en hindra sjálfstæðar aðgerðir einstakra stéttarfélaga, félagasambanda og hópa verkafólks. Hlutverk hennar er með öðrum orðum að sjá til þess að auðvaldinu og ríkisvaldi þess takist að framkvæma kaupránið á hljóðlausan hátt og um leið að halda niðri þeim hlutum verkalýðshreyfingarinnar, sem reiðubúnir væru til einhverrar baráttu.

SVÖR VERKAFÓLKS

Hver geta svör verkafólks orðið við þessum atlögum? EIK(m-l) vilja beina eftirfarandi til fólks. 1) Takið upp baráttu fyrir því að stéttarfélög ykkar taki upp sjálfstæða samningsgerð, óháða ASÍ. 2) Skipuleggið baráttu ykkar. Hafið samband við alla þá sem þið vitið að eru reiðubúnir til baráttu. 3) kynnið ykkur reynsluna af kjarabaráttunni. Kaupið bæklinginn "Gerum verkalýðsfélögin að baráttuhreyfingu" og fylgist reglulega með Vbl.

Frh. bls. 7

## „Hagræðingarráðstafanir": Andstæðar sjómönnum

Um daginn birtust í blöðum niðurstöður hagfræðings um að með bættu skipulagi á fisklöndun mætti auka loðnuveiðarnar um 30% með óbreyttum skipastól. Breytingarnar áttu að felast í því að valdið til að ákveða hvenær sérhvert skip hætti veiðum og hvar það landaði skyldi tekið frá skipstjórunum og fært í hendur skrifstofumanna loðnunefndar. Hagfræðingnum reiknaðist svo til að afli skipanna gæti þannig aukist um 30% og þar með líka gróðinn af rekstri loðnubræðslanna vegna betri hráefnisnýtingar. Borgarar og fjölmiðlar þeirra klappa að vonum hagfræðingnum lof í lófa fyrir "skipulagið". Við sjómenn vitum hins vegar mæta vel að kjör okkar skána ekkert þrátt fyrir stóraukin gróða loðnubræðslanna. Ríkisvaldið beitir bæði sínu Verðlagsráði og bráðabirgðalögum til að sjá til þess.

Það er nauðsynlegt fyrir okkur að standa vel á verði gagnvart öllum svona hugmyndum, því það er segin saga að í hvert sinn sem borgararnir fá "góða" hugmynd, þá eru þeir að skipuleggja enn eina árásina á kjör okkar. Enda þegja tillögur hagfræðingsins kyrfilega yfir viðhorfum sjómanna. Þær nefna hvergi ástæðurnar fyrir því að skipstjórar velja eina höfn frekar en aðra, en ástæðurnar eru einkum eftirtaldar:

- Þarfir skipa fyrir t.d. viðgerðarþjónustu eru mjög misjafnar og þá eru móttökustöðvarnar ekki síður misfærar um að uppfylla þær þarfir.
- Enginn heilvita skipstjórnarmaður heldur með drekkhlaðið skip sitt í langsiglingu, þegar allra veðra er von, nema því aðeins að það sé þeim mun stærra og betra.
- 10-20 klst. löndunarbið er oft kærkomin hvíld eftir miklar tarnir. Aukin "skipulagning" landana miðar að því einu að fækka hvíldarstundum okkar sjómanna.
- Heimahöfn er nú einu sinni heimahöfn, hvað sem öllum hagfræðilegum vangaveltum líður.

Fleiri atriði mætti til nefna sem hagfræðingnum láðist að taka tillit til. En hvað sem öðru líður, þá skal það hér að lokum undirstrikað, að við erum ekki tilbúnir til að versla með öryggismál okkar. Þess vegna mótmælum við svona skipulags"lausnum".

Sjómaður.

## Frá ritstjórn

Vegna mikils plássleysis verða margar greinar að bíða birtingar. Meðal greina sem bíða eru lokagreinin í greinaflokknum um Kína, framhaldsgrein um deilurnar í heimshreyfingu kommúnista ásamt mörgum greinum um innlend málefni. Að jafnaði berst okkur meira efni en pláss blaðsins rúmar við, en sjaldan hefur ástandið verið eins slæmt og nú. Eina ráðið til þess að bæta úr þessu er að herða baráttuna fyrir stærra blaði sem kemur oftar út.

Ritnefnd biður lesendur velvirðingar á því að við verðum að fresta birtingu framhaldsgreina, en um annað var ekki að ræða.

# Hafnarvinna er hættulegt starf

Ef fólk slysatryggir sig eru iðgjöldin mishá eftir því hvernig atvinnu fólk stundar. Tryggingarfélögin ákveða iðgjöldin með hliðsjón af Skýrslum um slysatíðni í viðkomandi atvinnugrein. Það er athyglisvert, að hafnarverkamenn skuli vera í dýrasta verðflokknum og lenda þar með fallhlífarstökkvurum og köfurum. Iðgjöldin eru meira en þrefalt hærri en þeirra sem vinna skrifstofustörf.

Slysahættan í hafnarvinnunni er augljós þeim sem þar vinna og eins er augljóst, að margt væri hægt að gera til að draga úr henni. En það kostar fyrirtækin peninga og úrbæturnar stranda á þröngsýni þeirra og virðingaleysi fyrir lífi og velferð verkafólks.

Það eykur mjög slysatíðnina, hve mannaskipti eru tíð í hafnarvinnunni. Meginorsök þess er hið fáránlega lága kaup sem þar er greitt og menn fara í betur borguð störf ef þeir eiga þess nokkurn kost. Þó er talsverður hluti verkamannanna gamalreyndir menn. Þeir hafa bjargað mörgum nýliðanum frá örkumlun með fortölum sínum og aðvörunum. Nýliðarnir eru nefnilega sendir beint niður í lest og fyrirtækið ómakar sig ekki við að kenna þeim allra nauðsynlegustu öryggisatriðin. Ef vel ætti að vera þyrfti hafnarvinnan og önnur flutningavinna að vera iðngrein sem menn lærðu og fengju svo sómasamlega borgað fyrir.

Dagsbrún hefur fyrir löngu komið því inn í samninga, að fyrirtækin greiði talsverðar bætur fyrir slys og það er vissulega gott svo langt sem það nær. En líf og heilsa verkafólks verður aldrei metin til fjár. Því er það mjög brýnt, að verkalýðsfélögin berjist fyrir úrbótum á vinnustöðum til að draga verulega úr slysahættu. Þessu hafa félögin sinnt slælega, forystumenn þeirra hafa margir haft meiri samúð með fyrirtækjunum og fjárhag þeirra heldur en öryggi verkafólksins.

Eimskipafélagið tryggir starfsmenn sína hjá tryggingafélögum og greiðir fyrir það hæsta iðgjald. Þetta iðgjald myndi eflaust lækka talsvert ef eitthvað raunhæft væri gert til að koma í veg fyrir slys í hafnarvinnunni. En skipakóngarnir hafa eflaust reiknað rétt og fundið út að það væri ódýrara að borga þessi háu iðgjöld en að draga verulega úr slysahættunni í hafnarvinnunni. Fyrir þeim er verkafólk tannhjól í stórri gullkvörn og meinið er, að þannig sjónarmið skuli ráða, þegar arðinum af vinnunni er ráðstafað.

Fréttaritari.

# Aukum útbreiðslu Verkalýðsbla

## Viðtöl við Ara Trausta Guðmundsson, formann EIK(m-l), og Albert Einarsson, ritstjóra Verkalýðsblaðsins.



Útbreiðsluherferð Verkalýðsblaðsins hefst 1. okt. n.k. Annars vegar er um að ræða herferð til að styrkja efnahagsundirstöðu blaðsins, en komið hefur fram talsverður samdráttur í lausasölu blaðsins undanfarna mánuði. Auk þess er kostnaður við útgáfuna sívaxandi. Hinn höfuðtilgangur herferðarinnar er að efla tengsl EIK(m-l) og kommúnistanna við verkafólk og allt framsækið fólk. "Samtökin stefna að stofnun nýs verkalýðsflokks - kommúnistaflokks fyrir árslok 1979. Reynslan sýnir að þau ráða yfir góðri stefnu og baráttuleiðbeiningum sem verða að ná betur út til fjöldans", sagði Ari T. Guðmundsson, formaður EIK (m-l) í samtali við blaðið. Einnig svaraði ritstjórinn, Albert Einarsson, nokkrum spurningum um blaðið og herferðina framundan.

VB: Ari Trausti, hvernig mun útbreiðsluherferðinni verða háttað?

Ari: Markmiðin eru aukning lausasölu um 50%, og fjölgun áskrifenda um 30%. Í blaðinu birtast töflur sem sýna hvernig gengur, en herferðinni lýkur 1. janúar 1979. Ætlunin er að úthluta hverri starfseiningu samtakanna "kvóta" til að uppfylla, þá munum við halda stutta ráðstefnu um blaðið og gefa út leiðbeiningar um herferðina. Ætlunin er einnig að virkja stuðningsfólk EIK(m-l) í sölu blaðsins.

Götusala verður aukin, auglýsingaspjöld sett upp, auglýsingalímmiðar notaðir og dreifirit borin út á vinnustaði í októberlok.

VB: Eitt er að skipuleggja herferð og annað að gera hana að raunveruleika. Er markið ekki sett hátt?

Ari: Með góðum undirbúningi, styrkri stjórn og almennri virkni félaga og stuðningsmanna EIK(m-l) ætlum við að hrinda áformunum í framkvæmd.

Blaðið treystir eingöngu á lesendur og velunnara sína. Sem blað vinnandi fólks og róttæks æskufólks afhjúpar það alla andstæðinga, setur fram kröfur og stefnu sem þjónar fjöldanum og skipuleggur baráttu eftir megni. Allir vita að VB ryður sér ekki rúms í stéttabaráttunni af sjálfu sér, heldur með markvissu og þrotlausu starfi kommúnistanna og baráttusinnanna. Því hvet ég félaga og stuðningsfólk til að gera nú stórátak. Munum að baráttan gegn kreppuráðstöfunum ríkisvaldsins og erlendri ásælni verður ekki öflug nema að útbreiðsla VB aukist. Sama má segja um stofnun kommúnistaflokksins á næsta ári.

VB: Hvað um vikulega útgáfu blaðsins?

Ari: Þegar herferðinni lýkur, um áramótin, mun undirbúningur að vikublaði hefjast. Vikublað krefst margra áskrifenda, styrks fjárhags og stórvirkrar ritnefndar. Án þessa er vikublað vonlaus ævintýramennska. Vikuútgáfuna undirbúum við með umræðum og áætlanagerð. Matið á herferðinni er fyrsta skrefið. Góður árangur, sem hvílir á lesendum og félögum - auðveldar okkur að ná jafn mikilvægum áfanga og hressilegt, alþýðlegt og beitt Verkalýðsblað á vikufresti markar hreyfingunni.

### LESENDUR EIGA AÐ TAKA ÞÁTT Í ÞVÍ AÐ BÚA TIL BLAÐIÐ

Ritstjórn ber ábyrgð á efnislegu innihaldi blaðsins og skipuleggur skrifin í það. Albert Einarsson, ritstjóri, var spurður um það, hvort ritnefnd fengi gagnrýni, ábendingar, hrósyrði o.s.frv. frá lesendum.

Albert: Við erum oft gagnrýnd og við fáum reyndar oft hrós líka! En sammerkt er hins vegar mestu af gagnrýninni að hún er oft lítið markviss og kemur ekki að fullum notum fyrir okkur. Þegar aðeins er gagnrýnd hin og þessi grein fyrir að vera góð eða slæm, þá getur verið erfitt að átta sig á hlutunum. Oft er nefnilega ekki tekið fram hvað í skrifunum sé slæmt eða gott. Nauðsynlegt er fyrir okkur að fá leiðbeiningar um úrbætur þar sem við vinnum ekki nógu vel.

VB: Hvað ætlar ritstjórn að gera til að gera blaðið aðgengilegra fyrir fleiri og bæta það efnislega?

Albert: Það er einkum þrennt, í fyrsta lagi að gera innihaldið heilsteyptara og gera efninu skil á markvissari hátt. Okkur er það ljóst að pólitískan heildarsvip skortir í blaðinu. Efni hverrar greinar verður að falla að öðru efni, þannig að innihaldið verði sem mest heild. Innihaldið verður jafnframt að taka mið af aðalverkefnum kommúnistanna á hverjum tíma. Í öðru lagi stefnum við að því að auka fjölbreytni í blaðinu og gera yfirbragð þess léttara. Við viljum útiloka langlokuskrif úr VB, en gerum okkur jafnframt vel ljóst að aldrei verður komið í veg fyrir að langar greinar birtist við og við. Við viljum gjarnan gera hlut viðtala og myndefnis frá vinnustöðum og af landsbyggðinni meiri, þar sem kjör og vinnuaðstaða verkafólks er leiðarljós skrifanna. Slíkt efni er bæði vinsælt og fræðandi, en kostar meira starf og betri undirbúning okkar.

Yfirbragð blaðsins ræðst líka mikið af uppsetningu og efnismeðferð í vinnslu blaðsins í prentsmiðju. Þessi hlið blaðvinnslunnar er því miður skammt á veg komin hjá okkur og ber merki viðvaningsháttar. Ég tel samt að blaðið sér fært um að mæta þessum vanda og félagarnir sem starfa í prentsmiðju muni enn styrkja starf sitt.

Í þriðja lagi vinnur ritnefnd að því að skipuleggja kerfi fréttaritara. Án þess mun blaðið aldrei ná lifandi tengslum við verkafólk og alþýðufólk annað, en það er auðvitað forsenda þess að blaðið verði raunverulegt baráttutæki. Við gerum okkur mat úr hvers kyns upplýsingum sem við fáum, greinum, myndum o.fl. Mikilvægt er upplýsingar séu sem best tæmandi, þ.e. gefi góða mynd af því sem um er að ræða.

VB: Lesendur geta sem sagt orðið að miklu liði við að bæta blaðið?

Albert: Já, á þann hátt sem

# Áskrifta og lausasöluherferð




Frá og með 1.okt. sl. hófst ný herferð til að afla Verkalýðsblaðinu nýrra áskrifenda. Herferðin stendur yfir fram að 1.jan.1979. Línuritið mun sýna hvernig herferðin gengur í heild en einnig mun línuriðið sýna hvernig gengur í hinum einstöku landshlutum og meðal íslendinga búsettra erlendis. Er hér um að ræða sósíalíska samkeppni á milli landhluta um hver komi fyrstur í mark.

Í lausasöluherferðinni höfum við sett okkur að selja visst magn af hverju tölublaði. Línuritið sýnir hvernig okkur gengur að ná settu marki. Af 16.tölublaði höfum við selt 57% miðað við núverandi markmið. Verðum við því að herða söluna til muna til að ná settu marki.

# Camp David

framha

### HVAÐ VILJA BANDARÍKIN MEÐ "FRIÐARUMLEITUNUM" SÍNUM?

Miðausturlönd hafa gífurlega þýðingu fyrir stríðsundirbúning risaveldanna, ekki síður en Afríkuhornið. Þar mætast þrjár heimsálfur, og sá sem stjórnar þessu svæ getur stöðvað allan olíuflutning til Evrópu, sem risaveldi bítast fyrst og fremst á um.

Allt frá Október-stríðinu árið 1973 hafa styrkur og áhrif Bandaríkjanna stöðugt dvínað í Miðausturlöndum. Þau hafa reynt að halda þeim við í gegnum stuðning við Ísrael, og það má geta þess hér, að árleg aðstoð Bandaríkjanna við Ísrael nemur 2 billjónum Bandaríkjadollara.

En nú dugar þetta ekki lengur, þar sem Bandaríkjunum er ógnað af hugsanlegum viðbrögðum Arabaríkjanna við áframhaldandi árásarstefnu Ísraels. Ekki er ráðlegt að styðja alveg blint útþenslu síonistanna. Þá kemur einnig annað til, þ.e. hitt risaveldið, Sovétríkin. Sovétríkin reyna að afla sér sem flestra

# aðsins!

ég hef lýst. Með því að senda okkur gagnrýni og hrós, og með því að senda okkur efni, myndir o.fl. Til dæmis væri mikill fengur að því að fá sendar fréttir frá lesendum á landsbyggðinni, af gangi mála á vinnustöðum og fleira. Þetta er afar mikilvægt, einfaldlega vegna þess að ritstjórn er staðsett í Reykjavík og því er óhjákvæmilega tilhneiging til að skrifa "Reykjavíkurefni" í miklum mæli. Úr þessu geta lesendur sjálfir bætt með því að senda efni og taka þannig þátt í störfum ritnefndar.

Fastir lesendur blaðsins geta ekki eingöngu bætt innihald blaðsins, heldur stuðlað að aukinni útbreiðslu þess. Ég vil að síðustu segja við þá sem kaupa og lesa VB reglulega: Takið blaðið með ykkur í vinnu og skóla. Sýnið það félögum og vinum. Bendið þeim á það sem blaðið skrifar um og leitið eftir áliti fólks á blaðinu. Á þann hátt takið þið þátt í að gera Verkalýðsblaðið betra, um leið og þið vinnið að því að stækka þann hóp sem les blaðið og kaupir það!

# ARÐRÁN OG KREPPA 3. hluti

Ef við rekjum í stuttu máli ganginn í ferli fisksins, þá ættum við að sjá hvernig auðhringur starfar.

Markmiðið með framleiðslu fisks er að leita eftir gróða. Til þess að sá gróði verði sem mestur, verður að halda kostnaði í lágmarki. Nú er því þannig háttað að útgerð getur ekki selt fisk nema á föstu verði, sem með aðstoð ríkisvaldsins er ákveðið af kaupendum og seljendum (oft sami aðilinn). Fiskurinn er unninn á einfaldasta hátt: Flakaður og frystur í blokkir. Þetta gerist í frystihúsum sem tengd eru sölukerfum SH og SÍS, eða eru beinlínis í eigu þeirra. Blokkrnar eru fluttar til Bandaríkjanna og seldar þar fyrirtækjum sem SH og SÍS eiga. Þar er fiskurinn fullunninn í neytendaumbúðir. Við það margfaldast verðmæti afurðanna. Bandarísku fyrirtækin nota ódýrasta vinnuaflið, blökkufólk, sem hvorki nýtur sömu réttinda né launa og hvítir í Bandaríkjunum. Bandarísku fyrirtækin ráða stór um hluta markaðarins, t.d. með því að takmarka framboðið um tíma og búa til aukna eftirspurn, sem hefur áhrif á markaðsverðið til hækkunar. Framboð á öðrum staðgengum afurðum getur hins vegar haft minnkandi áhrif á eftirspurnina eftir fiski og þar með tímabundið lægra verð.

## ÁKVÖRÐUN HRÁEFNISVERÐS

Rekjum nú ferilinn afturábak og með það í huga að markmið framleiðslunnar er sókn í gróða. Til þess að standa sem sterkast gagnvart sveiflum á bandarískum markaði er nauðsynlegt að borga sem minnst fyrir blokkirnar frá frystihúsunum. Blokkarverðið er ákveðið af fyrirtækjunum SH og SÍS í Bandaríkjunum. Markaðsverðið "segir" þeim að það sé ekki hægt að borga meira fyrir fiskinn. Frystihúsin á Íslandi fá ekki fjármagn til reksturs

# Kreppan á Íslandi

og kaupa á hráefni, og útgerðin lendir einnig í fjármagnssvelti. Það er hinsvegar önnur reikningsaðferð notuð þegar frystihúsaeigendum og útgerðarmönnum er borgað út, svo að þeir geti haldið áfram að lifa í lúxus og vellystingum, eins og vitað er að margir hverjir gera - á sama tíma og frystihús þeirra sýna tóma kassa eða bátar geta ekki róið vegna þess að "enginn peningur er til". Fyrirtæki SH og SÍS í Bandaríkjunum sýna hins vegar góða afkomu, enda verða þau að gera það til að njóta einhvers trausts í því peninganna landi. Fyrirtæki sem sýnir lélega afkomu á ekki upp á pallborðið hjá bandarísku bankaauðvaldi, t.d. varðandi fyrirgreiðslu til nýrra fjárfestinga o.fl.

Einkenni einokunarhringa er einmitt þetta sem hér hefur verið lýst. Þeir sækja gróðann fyrst og fremst í lokastig framleiðslunnar og gera það á grundvelli þess að þeir einoka allt framleiðsluferlið frá upphafi. Þetta gera SH og SÍS, eins og dæmið sýnir. Gróðinn sem til verður við strit karla og kvenna í frystihúsunum um allt land, fær ekki einu sinni að renna til frystihúsanna, svo að þau geti búið verkafólki tryggari vinnustaði og öruggari afkomu. Hann er hirtur í Bandaríkjunum og notaður af íslensku einokunarauðvaldi til frekari fjárfestinga og meiri gróða þar vestra, auk þess sem auðherrarnir hirða sjálfir til eigin lúxusbrúks.

## FJÁRMAGNSSKORTUR

Hvað kemur þetta svo kreppunni við? Jú, það sem helst hrjáir ísl. auðvaldsskipulagið nú er fjármagnsskortur. En fjármagnið, peningarnir, eru einmitt ein tegund vöru. Þegar þessa sérstöku tegund vöru vantar á markaðinn stöðvast framleiðsluferlið. Hlutverk peninga er að viðhalda hringrásinni í framleiðsluferlinu. Það mætti e.t.v. orða það þannig að peningarnir tengja endinn við upphafið í framleiðsluferlinu. Þegar þessi hringrás er rofin og peningunum er beint inn í annað hringrásarkerfi, þá verður að mæta því með sérstökum aðgerðum, t.d. gengisfellingum, aukinni seðlaútgáfu, sem þá um leið minnkar gildi hverrar mynteiningar og breytir genginu gagnvart annarri mynt, millifærslum á fjármagni. En helsta ráðið auðvaldsins til að skella byrðum kreppunnar yfir á herðar alþýðunni er að skerða launin, skera niður þjónustu og þannig reyna að skara að sér fé til áframhaldandi reksturs.

Launaskerðingin fer ýmist fram beint, t.d. með lagasetningum, eins og nýleg dæmi eru um, eða með gengisfellingu. Auðvaldið leysir ekki kreppur eigin skipulags með því að ganga á gróða sinn, heldur með því að ráðast á kjör verkalýðs og vinnandi alþýðu.

Séreinkenni þeirrar kreppu sem nú tröllríður öllu hér á Íslandi eru þau, að framleiðsluverðmætin skila sér ekki aftur inn í framleiðsluferlið. Búinn er til fjármagnsskortur sem síðan er notaður til þess að þrýsta niður launum verkalýðsins. Kreppan orsakast ekki af lágu markaðsverði, því að það hefur aldrei verið hærra. Kreppan orsakast af því að einokunarauðvaldið á Íslandi er að sækja enn meiri gróða í hendur íslenskrar verkalýðsstéttar, auka arðránið og styrkja einokunaraðstöðu sína. Þetta bendir okkur á hættulegasta óvin verkalýðs og vinnandi alþýðu.

# Kappræðufundir

Framhald af forsíðu

## 9.NÓVEMBER: NORÐAUSTUR - AFRÍKA.

Fimmtud. 9. nóvember kl. 2o.3o að Hótel Esju, 2. hæð, hefst annar fundurinn í röð þeirra sjö kappræðufunda sem áætlað er að halda í vetur. Sá fundur mun fjalla um átökin í Norðaustur-Afríku (Afríkuhorninu), m.a. Erítreu. EIK(m-l) munu leggja til annan frummælenda, en tilnefning hins er í höndum "Baráttuhreyfingar gegn heimsvaldastefnu", þiggi þeir boð EIK(m-l) þar um. Einnig verða skemmtiatriði á dagskrá.

Í 16. tbl. Verkalýðsblaðsins var rætt við formann EIK(m-l), Ara T. Guðmundsson, um þessa fundi. Hann komst m.a. svo að orði: "Ég skora á lesendur Verkalýðsblaðsins og reyndar alla þá sem eru forvitnir um hin kommúnísku samtök að sækja þessa fundi. Þetta verða líflegir fundir og menn geta komið fram með afstöðu sína eða beint fyrirspurnum til frummælenda."

# Bónus; BÚR

Frh. af forsíðu

ið felld, ef fundurinn hefði verið haldinn föstudaginn áður, eins og upphaflega hafði staðið til. Fyrirtækinu hefði verið andstaðan ljós, og því frestað fundinum og notað þessa daga til magnaðs áróðurs fyrir kerfinu. Til þess hefðu þeir notið ríkulega stuðnings verkalýðsbroddanna.

Enginn vafi er á því, að þetta fyrirkomulag merkir aukið vinnuálag á starfsfólk, verra andrúmsloft og meiri spennu á vinnustað, en um leið mun þetta vafalaust leiða til stóraukins gróða fyrir fyrirtækið.

Fréttaritari.

ldaf forsíðu

bandamanna meðal Arabaríkjanna, og ítök þeirra aukast að sama skapi í þessum eftirsóknarverða heimshluta, þrátt fyrir tímabundinn ósigur er Egyptaland sagði upp "vináttusáttmála" sínum við þau.

Bandaríkin hafa því orðið að breyta um aðferð. Þau hafa sett upp falskt friðarbros og reyna að ala á tálvonum um að hægt sé að koma á friði með samningum við síonistana. Raunverulegur tilgangur Bandaríkjanna með "friðarumleitunum" sínum, er að koma á samkomulagi við eitt eða fleiri Arabaríki og sundra þeim innbyrðis. Þetta virðist þeim ætla að takast, a.m.k. um stundar sakir.

## EÐLI ÍSRAELSRÍKIS BREYTIST EKKI.

Eitt verður mönnum að vera ljóst, og það er, að á meðan síonistaríkið Ísrael er við lýði og Palestínska þjóðin er ýmist réttlaus eða brottræk frá heimalandi sínu, Palestínu þar sem Ísraelsríki stendur nú, verður aldrei friður í Miðausturlöndum. Risaveldalausnir koma að engu gagni, nema fyrir viðkomandi risaveldi.

Ísrael hefur marg sinnis lýst því yfir, að ekki komi til greina að láta af hendi nokkurt herteknu svæðanna. Þau hafa einnig sýnt það í verki með því að hefja landnám á þessum svæðum og flytja þangað fjölda fólks. En vegna þess hve Ísrael er háð aðstoð Bandaríkjanna um alla uppbyggingu og stríðsrekstur, gat Carter þvingað Begin til þess að fallast á ákvæði Camp David samningsins, sem fjallaði um afhendingu Sínaískagans. Nú, svo skömmu eftir undirritun, virðast vera uppi mismunandi túlkanir á ákvæðum samninganna, svo óvíst er um efndir.

Eins og kunnugt er, hefur PLO og nokkur Arabaríki lýst sig andvíg Camp David samkomulaginu. Þetta eru eðlileg viðbrögð við herbragði Carters, og því ber að styðja hugsanlegar aðgerðir þeirra gegn því.

# Kosningavél Alþýðubandalagsins



Lönd vilja sjálfstæði – þjóðir vilja frelsi – alþýðan vill byltingu

# Herir Eþíópíu einangraðir í Eritreu

Eþíópía hefur ekki náð markmiðum sínum í þeirri miklu sókn á hendur erítreísku frelsishreyfingunum, sem hún náði í sumar. Markmiðin voru
1) að ráða niðurlögum frelsishers Eritreu (ELA),
2) að ná valdi á aðflutningsleiðum til frelsishreyfinganna og koma á, eða styrkja sínar eigin,
3) að einangra skæruliða frelsishreyfinganna frá fólkinu.

ÁRÁSIR EÞÍÓPÍU

15. maí í ár reyndu herir Eþíópíu að brjóta sér leið í gegn um víglínuna um Asmara, höfuðborg Erítreu, og hertaka mikilvæga hluta Dankaliao--svæðisins, sem er strandsvæðið í suðaustur-Erítreu. Þessari árás var hrundið á 3-4 dögum.

17. júní hófu herir eþíópísku fasistastjórnarinnar aðra árás á þrem vígstöðum, frá eþíópísku landamærabæjunum þremur: Humera, Shiraro og Mareb. Árásarherirnir mættu harðri andstöðu í Erítreu. ELF veitti þeim sérlega þung högg. Á einum og hálfum mánuði féllu 3-400 eþíópískir hermenn og fleiri þúsund særðust. 50 – 60 skriðdrekar og brynvagnar voru eyðilagðir og 16 skriðdrekar teknir herfangi ásamt þungum og léttum vopnum.

Þrátt fyrir þetta styrktu herir Eþíópíu stöðugt stöðu sína. Erítreumenn urðu því að breyta um taktík gagnvart þeim. Þeir létu óvininn hertaka nokkra af frelsuðu bæjunum í Erítreu, í því skini að grafa honum þar gröf. Nú eru herlið Eþíópíu einangruð hvert frá öðru, eiga í miklum vandræðum með aðflutning vista og verða fyrir stöðugum árásum hersveita frelsishreyfinganna. En styrkur erítreísku hersveitanna er jafn mikill og fyrir árásirnar, og þær eru hvergi einangraðar. Markmið árásanna varð ekki náð, svo líta verður á að Eþíópía hafi farið halloka í viðureigninni.



Erítreískir baráttumenn viðbúnir að mæta óvininum.

HUNDRUÐ ÞÚSUNDA LÍÐA FYRIR GRIMMD EÞÍÓPÍSKU FASISTANNA

Reiði eþíópíuhers yfir ósigrinum hefur bitnað á óbreittum íbúum þeirra borga og bæja sem enn eru ekki frelsuð. Fleiri hundruð ungmennum hefur verið rænt í Asmara, og til flestra þeirra hefur ekkert spurst. Loftárásum á frelsuðu svæðin er enn haldið uppi – þar rignir niður napalm og flísasprengjum. Afleiðingar þessa eru að um 800 þúsund flóttamenn eru nú í Erítreu fyrir utan þá 200 þúsund sem flúið hafa til Súdan. Yfir 100 þúsund hafa látið lífið í sprengjuárásunum. Rauði kross og Rauði hálfmáni Eritreu hefur gert sitt besta til að linna þjáningar fólksins, en þrátt fyrir það eiga margir um sárt að binda, og hafa frelsishreyfingarnar tvær beðið um aðstoð í þessum efnum. Þess er skammt að minnast hvernig Hjálparstofnun kirkjunnar brást við. Hún hóf hjálparsendingar með aðstoð flugvélar frá Iscargo til Asmara, sem er hersetin af Eþíópíuher og kemur þetta því út sem beinn stuðningur við fasistastjórnina í Eþíópíu.

HLUTVERK SOVÉTRÍKJANNA OG KÚBU Í ERÍTREU

Hvort sem Sovétríkin og Kúba taka beinan þátt í stríðinu í Erítreu eða ekki, þá er sá hernaðarlegi, efnahagslegi og diplómatíski stuðningur sem þessir aðilar veita stjórninni meiri og mikilvægari en bein þátttaka á vígvellinum. Án þessa stuðnings myndi fasistastjórnin ekki leggja út í tilraunir til að berja frelsishreyfingarnar niður í Eritreu. Hér á landi er að finna marga sem eru tilbúnir að taka upp hanskann fyrir Sovétríkin og Kúbu í Erítreumálinu. Í því tilefni má geta þess, að þann 9. nóvember mun EIK(m-l) efna til kappræðufundar um þessi mál og eru lesendur eindregið hvattir til að mæta og kynna sér málin. Fundur þessi mun verða auglýstur nánar síðar.

# Popptónlist gegn fasisma




"Rock against racism" eða "Rokk gegn kynþáttastefnu" heitir hreyfing popptónlistarmanna og áhugafólks um popptónlist í Bretlandi, sem á það sameiginlegt að vilja nota popptónlistina sem tæki til að berjast gegn kynþáttastefnu og glæpum nýfasísku hreyfingarinnar þar í landi. Í Bretlandi er tiltölulega öflug fasísk stjórnmálahreyfing, "National front" ("Þjóðfylkingin"), og beinir hún spjótum sínum óspart að þeldökkum íbúum Bretlands, vinstri sinnum og baráttufólki fyrir jafnrétti á öllum sviðum. Rokkhljómsveitin Tom Robinson Band er í fararbroddi fyrir "Rokk gegn kynþáttastefnu"-hreyfingunni og hefur lagt málstaðnum lið með hljómleikum, plötuútgáfu og fleiru. Í mörgum hljómplötuverslunum á Íslandi fæst albúmið "Power in the darkness", fyrsta breiðskífa hljómsveitarinnar. Albúmið hefur raunar að geyma tvær breiðskífur og kostar"aðeins" rúmlega 5 þús. kr. Textar með lögum TRB eru margir afar góðir, fjalla um ógnir fasismans, valdbeitingu lögreglunnar gegn unglingum, vandamál fíkniefnaneytenda og réttindabaráttu "kynvillinga" (homosexualista). Tom Robinson hljómsveitarstjóri er "kynvilltur" og hefur ekki síst vakið athygli fyrir einarða baráttu sína fyrir réttindum til handa "kynvillingum" (er virkilega ekki til annað og betra orð á íslensku yfir homosexualista? ). Það er því hægt að ráðleggja rokkunnendum eindregið til að kaupa "Power in the darkness" og kynna sér hvernig hægt er að nota popptónlist í baráttu.

Þá má nefna að bítillinn Paul McCartney hefur lýst stuðningi sínum við "Rokk gegn kynþáttastefnu". Hins vegar skal bent á þekkta poppara, svo sem Eric Clapton, fyrrum gítarista í Cream og Blind Faith, og David Bowie. Þeir eru báðir yfirlýstir fasistar og stuðningsmenn "National Front". Báðir moka peningum í fasísku hreyfinguna og halda popptónleika henni til stuðnings og dýrðar. Andstæðingum fasisma og Kynþáttakúgunar meðal unnenda popptónlistar ber því að sniðganga gersamlega afurðir Claptons og Bowies, en styðja með ráðum og dáð hreyfinguna sem mun koma hugmyndafræði fasismans þangað sem hún á heima: á öskuhaugana.

Niður með fasismann.

## Foringi marx-lenínista í Póllandi:

# Í STOFUFANGELSI Í ALBANÍU Í TVÖ ÁR !

Kazimierz Mijal, foringi hins ólöglega Kommúnistaflokks Póllands, yfirgaf Albaníu í lok júní eftir 13 ára búsetu þar. Ástæðan fyrir því er sú að síðastliðin tvö ár hefur hann setið í eins konar stofufangelsi í Tírana fyrir að styðja kenningu Maós Tsetungs um hina þrjá heima, og vegna stuðnings síns við Kommúnistaflokk Kína.

Kazimierz Mijal hefur allt sitt líf verið kommúnisti og einbeittur andstæðingur hvers kyns endurskoðunarstefnu. Árið 1963 skrifaði hann bæklinginn "Sigur í baráttu", sem beindist gegn endurskoðunarsinnaðri og gagnbyltingarsinnaðri stefnu Gómúlka og gegn innrás Sovétríkjanna í Pólland. Eftir þetta var hann ofsóttur af pólitískum stjórnvöldum.

Árið 1965 tók hann þátt í að stofna Kommúnistaflokk Póllands á grundvelli marx- og lenínisma, og hann er enn



foringi flokksins. Sama ár neyddist hann til að flýja Pólland til að komast hjá handtöku.

Kazimierz Mijal hefur síðan búið í Albaníu. Síðustu tvö árin hafa Albanir hins vegar reynt á alla lund að koma í veg fyrir að erlendir marx- og lenínistar fengju að hitta hann. Þetta jafngildir að sjálfsögðu stofufangelsi, þegar þess er gætt hve mikilvæg öll ytri tengsl eru bönnuðum kommúnískum flokki.

(Gnistan)

# Páfinn dauður, en páfakirkjan lifir

Maðurinn með ljáinn er orðinn heimilisköttur í Páfagarði og reytir líftórur úr húsbændum þar. Tveir páfar liggja í valnum á nokkrum vikum. En hvort sem páfahróið á hverjum tíma er lífs eða liðið, þá er eðli páfadómsins samt við sig og breytist ekki hvort sem páfinn heitir Pétur eða Páll. Páfinn er höfuðið á einni afturhaldssömustu og viðbjóðlegustu stofnun sem sagan hefur að geyma. Í þúsund ár hefur páfakirkjan barist ötullega gegn allri þróun, gegn vísindalegum framförum, gegn byltingarsinnuðum hugsunum og gerðum. Páfakirkjan á okkar tímum hefur starfað hönd í hönd með fasistum og nasistum og á stóran þátt í því að halda alþýðu manna í kúgunarfjötrum víða um jörð. Milljónir bænda og verkamanna eru fangar hins kaþólska ópíums, en kaþólska kirkjan er frábrugðin öðrum kirkjum að því leyti að hún hefur geysisterkt skipulag um allar jarðir, umfangsmikla starfsemi og geysileg auðæfi. Páfagarður er einn stærsti auðhringur heims og er skipulagður sem sérstakt ríki,

Páll páfi eyddi miklu af starfsorku sinni í það að fordæma og bannfæra sósíalismann, fóstureyðingar, getnaðarvarnapilluna og fleira. Varla leið svo dagur að ekki bærist um heimsbyggðina nöldur úr holtaþoku Vatíkansins um sitthvað sem til framfara heyrði. Þar ríkti stöðugt – og ríkir enn og áfram – myrkur svartra miðalda.

Enn eru gráskeggjaðir kardínálar komnir til Rómar að velja sér sameiginlegt afturhaldstákn. Enn um sinn mun páfakirkjan halda áfram að leika afturhaldshlutverk sitt, en sagan hefur dæmt fyrirbærið og sá tími mun örugglega koma að maðurinn með ljáinn mun ekki láta staðar numið við páfann sjálfan – heldur senda páfakirkjuna í heilu lagi á sorphaug sögunnar.





# Lesendabréf

Verkalýðsblaðinu hafa borist tvö lesendabréf sem fjalla um Verkalýðsblaðið, efni þess og útlit. Annað bréfið er frá manni sem nefnir sig "menntamann", og er það mjög langt og ítarlegt. Hitt bréfið er frá sellu í EIK(m-l), sem kemur með ýmsa gagnrýni á blaðið og ábendingar um úrbætur. Rúmsins vegna er því miður ekki unnt að birta bæði bréfin, og verðum við því að grípa til þess kostar að birta úrdrátt úr þeim hér. En þau verða blaðinu engu síður að gagni. Ritnefnd mun fjalla ítarlega um þessi bréf og aðra gagnrýni, sem borist hefur. Við erum sannfærð um að þessi gagnrýni verður okkur til ómetanlegrar hjálpar. Verður aldrei nógsamlega brýnt fyrir lesendum að senda okkur sem mest af slíkum bréfum með gagnrýni, ábendingar og tillögur til úrbóta. Það varðar líf og dauða blaðsins. Í næsta tbl. munum við leitast við að svara eða a.m.k. taka tillit til þeirrar gagnrýni sem í okkar hendur hefur komist. Það ætlum við að geti orðið eitt besta framlag okkar til þeirrar herferðar til eflingar blaðsins, sem nú er farin af stað. Höldum áfram þessari umræðu um blaðið undir vígorðinu:

BÆTUM VERKALÝÐSBLAÐIÐ!

## EFNI OG EFNISMEÐFERÐ

Bæði bréfin benda á þann megingalla skrifa í blaðinu, að greinar séu of langar. Einnig séu skrifin tíðast allt of almenn, – að of lítið sé fjallað um sérstök atriði, dæmi of fá, rannsóknarblaðamennsku vanti. EIK-sellan bendir á að of mikið sé gert af því að draga fram hið neikvæða í stéttabaráttunni. "Þó svo að baráttustaða alþýðunnar sé veik, þá vinnast smásigrar hvern dag."

Bæði bréfin benda á það að lesendum sé aldrei leyft að draga niðurstöður sjálfir. Allt sé matað ofan í þá og enginn kostur gefinn á sjálfstæðri hugsun.

Gagnrýni kemur fram á efnisval og efnisvægi blaðsins í báðum bréfunum. "Menntamaður bendir á að of lítið sé af mikilvægu efni eins og fréttum af vinnustöðum, en erlent efni sé á tíðum einum of mikið. "Menntamaður" deilir í því sambandi á lesendur blaðsins, sem séu ekki nærri nógu duglegir við að senda blaðinu efni og fréttir.

EIK-sellan telur að "blaðið grípi ekki nóg inn í þá umræðu sem fólk sé upptekið af hverju sinni og þrói áfram á máli fólksins framhjá þeim forarpyttum sem auðvaldsfjölmiðlarnir leiða hana ofan í."

EIK-sellan bendir á að blaðið sé ekki nógu líflegt og aðgengilegt fyrir fólk. "Menntamaður" er á sama máli og bendir á að "í blaðið vanti tilfinnanlega létt efni sem höfði til annarra en stækra áhugamanna um stjórnmál." Stingur hann upp á ýmsu til úrbóta, s.s. að krossgátur haldi áfram, myndasaga um íslenskt efni verði í blaðinu, skopteikningar, ljóð, rabbdálkur og fræðsluefni annað en pólitík.

## MÁLFAR

"Menntamaður" deilir allmjög á málfar blaðsins, sem hann telur vera fjarlægt venjulegu máli. Setningarnar séu langar og flóknar, og stafsetningarvillur tíðar.

Þá telur hann of mikið gert af því að þýða erlend hugtök með nýyrðum, en möguleikar eins og að umorða hugtök eða gæða gömul orð nýju lífi ekki notaðir sem skyldi. Slettunotkun sé einnig of mikil, og sjálfsagt sé að berjast gegn notkun erlendra orða, sem enn eru ekki búin að vinna sér þegnrétt í málinu og hægt sé að þýða.

Þá gagnrýnir "Menntamaður" mjög ranga notkun greinamerkja, s.s. notkun sviga og skástrika. Einnig deilir hann á ofnotkun skammstafana og styttinga í blaðinu og leggur til að skriffinnar blaðsins venji sig á að skrifa orðin heil. Skammstöfun nafna er einnig mikill þyrnir í augum "Menntamanns". "Ef við þurfum að stytta löng og erfið nöfn, skulum við gera það á þann hátt sem alþýðan gerir það. Tölum um "Bandalagið" en ekki AB, Fylkinguna en ekki FBK, Einingarsamtökin en ekki EIK(m-l), "Flokkinn", en ekki "KFÍ/ML" o.s.frv."

"Menntamaður" hefur ýmislegt út á nafngiftaval kommúnista að setja. Telur hann t.d. nafn EIK(m-l) gallað vegna þess að þar sé tvítekin sama hugsun (kommúnisti: marx-lenínisti). Leggur hann til að flokkurinn sem stofnaður verður að ári verði nefndur VERKALÝÐSFLOKKURINN, án sviga, skástrika og bandstrika, – en vilji menn endilega útskýra meira af stefnunni í nafni flokksins geti hann fengið undirheitið "flokkur íslenskra marx- og lenínista". Telur hann að hlegið sé að nöfnum eins og EIK(m-l), og "maður á ekki auðvelt með að treysta þeim sem maður hlær að", eins og segir í bréfinu.

## ÚTLIT OG FRÁGANGUR

"Menntamaður" telur blaðið oft vera heldur ókræsilegt til sölu vegna slæms frágangs og uppsetningar. "Á útsíðum verður til dæmis helst að vera efni sem vekur áhuga. Fyrirsagnir og myndefni ásamt myndatextum verður að vera áhugavekjandi, lifandi. Fyrirsagnirnar sjálfar verða að höfða til þess sem fólk talar um og vera skýrar og ljósar"... "Það verður að leggja pólitískt mat á uppsetningu og niðurröðun efnis á síður... Fleiri greinar, stærri fyrirsagnir og fleiri myndir á síðu er regla sem starfsmenn Verkalýðsblaðsins ættu að temja sér". Þá bendir "Menntamaður" á að prófarkalestur sé oft mjög lélegur, myndatexta vanti o.þ.h. "Slíkt er aldrei fyrirgefanlegt, sama hversu syfjaðir, þreyttir og stressaðir menn eru. Slæmur prófarkalestur er ekki aðeins vinnusvik, heldur pólitísk villa, sem verður að útrýma."

## LOKAORÐ

Báðir bréfritarar hafa í lokin falleg orð um blaðið og tilgang þess. EIK-sellan segir m.a. :

"Þrátt fyrir alla þá galla sem hér hafa verið nefndir, er Verkalýðsblaðið besta blaðið á Íslandi, og EIK(m-l) og alþýðan eiga eftir að bæta það og efla með réttri beitingu gagnrýni og sjálfsgagnrýni."

"Menntamaður" segir m.a. :

"Gerum okkar til að bæta blaðið. Sýnum í verki að þetta sé okkar blað. Sendum inn gagnrýni, ábendingar um efni og útlit, tillögur, fréttir, – tökum þátt í umræðunni um Verkalýðsblaðið. Með því móti einu gerum við það að blaði sem er verðugt íslenskum verkalýð. Verkalýðsblaðið er gott blað, það er besta blað á Íslandi í dag. Það er gott vopn í baráttunni, ef við kunnum að nota það. Gerum það að enn betra vopni!"

# Stundakennarar

Frh. af bls. 3

þessarar deilu. Meginkrafa stundakennara er að þeir verði ráðnir til a.m.k. 1 misseris í senn og haldi jöfnum launum allt tímabilið. Eins og nú er, dragast lögboðin frí frá launum, s.s. jóla- og páskafrí. Þá eru í kröfugrundvellinum kröfur um leiðréttingu vegna óhjákvæmilegrar prófvinnu, stjórnunarvinnu, og vegna yfirvinnu. Jafnframt er kveðið á um að settar verði reglur um greiðslu aukalauna vegna sérstaklega undirbúningsfrekrar kennslu.

Kröfur stundakennara miðast við að nálgast það mark, að vinna þeirra verði metin til jafns við vinnu þeirra sem fastráðnir eru sem lektorar, prófessorar o.s.frv., enda er starf þeirra hið sama, ef frá eru skilin loðin og lítt haldin ákvæði um "rannsóknarskyldu" fastra kennara. Eða eins og það var orðað á fundinum: Sömu laun fyrir sömu vinnu!

Á fundinum var kosin nefnd manna til að skipuleggja verkfallsaðgerðir: Egill Egilsson, Þorvaldur Árnason og Sverrir Bergmann.

Fréttaritari.

# Knýjum fram!

Frh. af bls. 3

Það getur veitt ykkur ómetanlega leiðsögn í baráttunni og komið í veg fyrir ónauðsynlega ósigra. 4) Hópar á vinnustöðum, sérstaklega þeim stærri, gangið á undan, reynið að vinna upp samstöðu til baráttu fyrir hærri launum og öðrum hagsmunamálum.
5) Setjið upp kröfuna 180 þús. kr. lágmarkslaun, 30% hækkun á öll laun. – Fullar vísitölubætur, samkvæmt óskertri framfærsluvísitölu.

Til baráttu gegn auðvaldi og stéttasamvinnu.

Verkalýðsmálafulltrúi.

# Kjara..

Frh. af fors.

Vísitalan veitir auðherrum visst aðhald, og sem slík er hún gagnleg. Við verðum því að bregðast harkalega við öllum tilraunum auðvaldsins og tækja þess, ríkisvaldsins og stéttasamvinnupáfa ASÍ og BSRB, til að skerða og kippa úr sambandi þeim áhrifum vísitölunnar að hún hækki kaup í samræmi við verðhækkanir – a.m.k. að hluta.

# Einingarformaðurinn ....

Frh. af forsíðu

## GÖMUL ÓÁNÆGJA – GÓÐ SAMSTAÐA

Tíðindamaður VB á Akureyri náði tali af tveimur hafnarverkamönnum, Gunnari Kristjánssyni og Eiríki Kúld, og spurði nánar um aðgerð þeirra.

Gunnar: Það hefur lengi verið megn óánægja með greiðslu fyrir freðfiskvinnuna, samkvæmt samningunum. Sú vinna er illa borguð, en líklega sú erfiðasta af öllu við höfnina. Í samningunum var sagt, að endurskoða mætti bónusvinnukerfið, sem tók gildi 1974, að fenginni reynslu. Það hefur hins vegar ekkert verið gert í því, nema hvað "premían" hefur verið lækkuð á ákveðnum vörutegundum frá Sambandinu.

Eiríkur: Um þessa lækkun var samið prívat við Jón Helgason, en við vorum náttúrulega andvígir því.

Gunnar: Kjör okkar hafa í reynd versnað verulega. Hér áður gilti það að þessi fasti hafnarvinnuhópur hafði forgang að allri hafnarvinnu sem hann komst yfir með góðu móti. Síðan samdi félagið í fyrra við atvinnurekendur um fastráðningu ákveðins fjölda hjá hverri skipaafgreiðslu. En fastráðningin þýddi það í framkvæmd, að tekinn er af okkur forgangsrétturinn að öðrum skipum en þeim sem við erum fastráðnir við.

Nú, varðandi freðfiskinn, þá sáum við ekki aðra leið til að lagfæra kaupið en að stöðva vinnuna.

Eiríkur: Það var mjög góð samvinna um aðgerðina. Það var fenginn góður hópur stráka í fiskinn með okkur þessum fastráðnu, og þeir stóðu ágætlega með okkur.

## UMMÆLI JÓNS HELGASONAR

Eiríkur: Jón Helgason, formaður Einingar, lét hafa eftir sér í útvarpi um málið að þetta væri alveg ólögleg aðgerð og félaginu óviðkomandi. Hún hafi komið mjög flatt upp á sig, sagð'ann. Við reyndum að ná af honum tali út af þessu, en hann svaraði því til að tíminn hjá sér væri "alveg fullbókaður" fram yfir jól!!" Vísaði svo á annan mann (!).

Að lokum sagði Eiríkur að ekki væri meiningin að afgreiða neinn freðfisk hjá Útgerðarfélaginu fyrr en greiðslur fyrir hann hefðu fengist lagfærðar.

(Viðbrögð Jóns Einingarformanns í málinu eru skiljanlegri þegar litið er á það, að hann situr í stjórn Útgerðarfélags Akureyringa!).

Verkalýðsblaðið og EIK (m-l) senda hafnarverkamönnum baráttukveðjur.

Fréttaritari/Akureyri.



# VERKALÝÐS BLAÐIÐ

Málgagn Einingarsamtaka kommúnista (marx-lenínista)

Gerist áskrifendur
Áskrift greiðist á
gíró 12200-9

ÁBYRGÐARMAÐUR : ALBERT EINARSSON
1 árs áskrift: kr. 2500
½ árs áskrift: kr. 1500
Til útlanda: kr. 5500
Stuðningsáskrift: kr. 5000
ÓÐINSGÖTU 30, Pósthólf 5186,
Reykjavík, sími 29212



# Yfirlýsing EIK(m-l)

## varðandi framkomnar tillögur um starf og stefnu Samtaka herstöðvaandstæðinga

1. Allt frá árinu 1976 hefur hallað undan fæti hjá Samtökum herstöðvaandstæðinga (SHA). Virkni almennra félaga, sem og samtakanna í heild, hefur minnkað, samband miðnefndar við hverfahópa hefur verið slæmt og lýðræði hefur ekki verið virt innan samtakanna sem skyldi. Bein afleiðing af þessu er t.d. að hverfahópar samtakanna hafa flestir lagst af.

2. Á síðustu landsráðstefnu SHA höfðu félagar og stuðningsmenn EIK(m-l) forgöngu um tillögur er miðuðu til úrbóta. M.a. má nefna tillögur er lutu að víkkun grundvallar samtakanna, auknu lýðræði innan þeirra, betri fjöldastefnu og bættri framkvæmd ákvarðanna.

3. Varðandi þær tillögur er nú hafa verið lagðar fram og varða starf og stefnu SHA vilja EIK(m-l) gera eftirfarandi athugasemdir:

a) Fram er komin tillaga, undirrituð af Elíasi Davíðssyni og fleirum, er inniheldur efnislega eftirfarandi:
- Nafni samtakanna skal breytt í Samtök herstöðvaandstæðinga og þjóðfrelsis.
- Þá er í 2. grein laganna, sem fjallar um markmið SHA bætt við tveim liðum, þannig að greinin hljóði svo:
"Markmið samtakanna eru:
(1) - að herstöðvar hér á landi verði lagðar niður.
(2) - að Ísland segi upp aðildinni að NATO og standi utan allra hernaðarbandalaga.
(3) - að standa vörð um efnahagslegt sjálfstæði Íslands gegn ítökum fjölþjóðaauðhringa og fjármagnsstofnana.
(4) - að Ísland taki virkan þátt í baráttu smáþjóða fyrir þjóðfrelsi en gegn vígbúnaðarkapphlaupi stórvelda og allri heimsvaldastefnu."

EIK(m-l) vilja gera eftirfarandi athugasemdir við 3. og 4. lið tilvitnunarinnar:
i) EIK(m-L) eru efnislega sammála 3. lið, en telja ekki rétt að hafa hann með í stefnugrundvelli SHA. Slíkt teljum við að sé til þess fallið að dreifa kröftum samtakanna og minnka slagkraft þeirra.
ii) EIK(m-l) telja 4. lið ruglandi og ónákvæman. T.d. álíta EIK(m-l) að Ísland geti ekki tekið þátt í þjóðfrelsisbaráttu þar sem þjóðfrelsisbarátta er ekki háð á Íslandi, vegna þess að landið er sjálfstætt auðvaldsríki. Hér er háð barátta sjálfræði og verndun sjálfsákvörðunar. "Stórveldi" er óskilgreint hugtak, og ekki er tilgreint við hvað er átt með orðalaginu "allri heimsvaldastefnu". EIK(m-l) munu beita sér fyrir breytingartillögum við 3. og 4. lið tillögu Elíasar Davíðssonar og fleiri.

EIK(m-l) hafa alla tíð barist fyrir því að ágreiningsmál innan SHA verði rædd til hlýtar - t.d. lögðu félagar EIK(m-l) fram tillögu þar að lútandi á síðustu landsráðstefnu SHA. Þar var lagt til að deilurnar um afstöðuna til risaveldanna og heimsvaldastefnunnar almennt yrðu ræddar innan samtakanna. Þessi tillaga var felld. EIK(m-l) munu halda áfram baráttu fyrir því að þessi mál verði rædd til hlýtar - en leggjast gegn samþykkt loðinna og ónákvæmra stefnuskrárákvæða, sem einungis eru til þess fallin að fela ágreininginn en ekki leysa úr honum.

b) Fram eru komnar tillögur er varða starf og starfshætti SHA frá Kópavogshóp samtakanna, og er þeim fylgt á eftir með nauðsynlegum lagabreytingum. Efnislega innihalda tillögur Kópavogshóps eftirfarandi:
- Gera skal starf samtakanna markvissara og auka verkaskiptinguna.
- Berjast skal virkt gegn öllum pólitískum hrossakaupum: virk einstaklingsaðild að samtökunum ráði í hvívetna, og komið skal á félaga- og stuðningaðild að samtökunum.
- Landsþingssamþykktir verði bindandi fyrir starfið og úthlutun verkefna verði markvissari.
- Miðnefnd skal gerð virkari og tengsl miðnefndar við félaga og hópa efld.

EIK(m-l) telja tillögur Kópavogshóps vera í framfaraátt.

4. EIK(m-l) hafa þá afstöðu að SHA séu samtök allra þeirra er af heilhug vilja vinna að baráttunni gegn hernum og NATO og gegn heimsvaldastefnu. EIK(m-l) styðja samtökin heilshugar, en áskilja sér þó rétt til að gagnrýna það sem miður fer í starfi og stefnu samtakanna og berjast fyrir því að SHA starfi gegn báðum risaveldunum. EIK(m-l) munu í starfinu framundan stuðla að því eftir mætti að SHA verði styrkt jafnt pólitískt, hugmyndafræðilega og starfrænt. EIK(m-l) munu hvetja félaga sína til þess að fylgja á eftir tillögum í sama anda og lýst var í 2. lið hér að framan og í lið 3 b.

Einhuga og sterk samtök herstöðvaandstæðinga, sem byggja starf sitt á góðri fjöldastefnu og styrkri pólitískri stefnu eru ósigrandi. Látum það verða markmið okkar í framtíðinni.

Framkvæmdanefnd miðstjórnar EIK(m-l)

# Athugasemd frá Verkalýðs blaðinu

Í síðasta tbl. Verkalýðsblaðsins birtist grein þar sem fjallað var um framkomnar tillögur til breytinga á lögum Samtaka herstöðvaandstæðinga. Lýsti greinin stuðningi við tillögurnar, sem bornar eru fram af Elíasi Davíðssyni og fleirum. Þessi afstaða er ekki í samræmi við stefnu EIK-(m-l) og Verkalýðsblaðsins. Verkalýðsblaðið dregur til baka stuðning við þessar tillögur.

Okkur þykir leitt að slík vinnubrögð, sem þessi, að birta grein, sem ekki er í samræmi við stefnu samtakanna, skuli eiga sér stað. Afstaða EIK(m-l) og Verkalýðsblaðsins til tillagnanna kemur fram í yfirlýsingu Framkvæmdarnefndar miðstjórnar EIK(m-l), sem birt er í þessu blaði.

Vegna mikils plássleysis í blaðinu munum við ekki fjalla um liðsfund SHA þann 23/9 í Reykjavík. En við munum í greinum í næstu blöðum taka til meðferðar margar af þeim verkefnatillögum sem kynntar voru á þessum fundi, t.d. spurninguna um þjóðaratkvæðagreiðslu um herinn og NATO, og hugmyndina um friðlýsingu N-Atlandshafsins.

Ritnefnd.

# Ragnar Arnalds lausnari námsmanna?

Vart er hægt að segja að námsmenn hafi fengið þann besta í ráðherrasæti menntamála. Þeir eiga ekki von á góðu frá Ragnari Arnalds. Á vinstristjórnarárunum vann hann það sér helst til frægðar í lánamálum námsmanna að styðja (en um leið krukka svolítið í) kjaraskerðingarfrumvarp Magnúsar Torfa um menntamál, sem dagaði uppi við andlát "vinstri" stjórnarinnar. Frumvarp þetta var síðan endurvakið og gert stórum verra af hægri stjórninni og Vilhjálmi frá Brekku.

Það vakti athygli námsmanna að Ragnar Arnalds hefur í yfirlýsingum sínum um menntamál mjög lagt áherslu á að samdráttur eða amk. stöðnun yrði í öllum þáttum menntamála á næstunni. Hins vegar hefur hann ekki minnst á lánamál námsmanna sérstaklega.

Námsmenn krefjast nú skýrra svara af Ragnari Arnalds, hinum nýja "sósíalíska" menntamálaráðherra:

1. Ætlar Ragnar Arnalds að ganga að þeim kröfum sem námsmenn hafa sett fram í dómsmáli sínu við Lánasjóð námsmanna, menntamálaráðherra og fjármálaráðherra, að fullt tillit verði tekið til barna og maka námsmanna ?
2. Ætlar Ragnar Arnalds að beita sér fyrir því að námslán nægi til framfærslu og hækka lán úr 85% fjárþarfar í 100% ?
3. Ætlar Ragnar Arnalds að beita sér fyrir því að nemendur allra framhaldsskóla - einnig verknámsskóla - njóti fullra réttinda til námslána ?
4. Mun Ragnar Arnalds sjá til þess að endurgreiðslukjör námslána verði gerð réttlátari, t.d. að vísitölubindingin verði felld burt ?
5. Er Ragnar Arnalds að undirbúa lagfæringu á lögunum um námsaðstoð, reglugerðinni um Lánasjóðinn og hinum makalausu úthlutunarreglum "þrífólsins" í stjórn LÍN ?

Námsmenn bíða spenntir eftir svörum Ragnars Arnalds menntamálaráðherra Alþýðubandalagsins. Verður nú staðið við stóru orðin frá því fyrir kosningar ?

Fréttaritari í SÍNE

Verkalýðsblaðið mun veita Ragnari Arnalds rúm í næsta blaði til að svara þessum spurningum. Ritnefnd.

# Háskólinn: Verða haustpróf felld niður?



Í fyrra var sett ný reglugerð um nám í heimspekideild Háskóla Íslands. Sú reglugerð felur í sér ýmsar nýjungar, sumar til bóta fyrir nemendur deildarinnar svo sem aukið val um námsþætti, en aðrar slæmar. Að undanförnu hefur ríkisvaldið þrengt kost okkar námsmanna með mjög hörðum lánakjörum og sótt fast á með svokallaðar "hagræðingarráðstafanir". Að fella niður haustpróf í heimspekideild er slík "hagræðingarráðstöfun". Mun hún bitna harkalega á okkur námsfólki í deildinni sem mörg neyðumst til að vinna með skólanum, t.d. við kennslu. Námið er þannig skipulagt í deildinni að kennslustundir e eru fáar (12-16 á viku miðað við fullt nám) en heimavinna er því meiri. Getur hún allt eins farið fram á sumrin að verulegu leyti.

Beitingu ákvæðisins um niðurfellingu haustprófa var frestað sl. vor þannig að það kom ekki til framkvæmda nú í haust. Urgur er í nemendum deildarinnar vegna málsins enda ljóst ef af niðurfellingu haustprófa verður muni það seinka mörgum mjög í námi og neyða aðra til að hætta námi með öllu.

Tilgangur ríkisvaldsins, með hörðum lánakjörum og "hagræðingarráðstöfunum" á borð við þessar er sá að velta hluta af byrðum kreppunnar yfir á herðar okkar námsmanna. Við nemendur krefjumst þess að það verði ekki gert og munum snúast til varnar. Ef við sýnum órofa samstöðu um sjálfsagðan og hefðbundinn rétt okkar, mun sigur vinnast.

Fréttaritari í HÍ.

# 1. DESEMBER

Framkvæmdanefnd Baráttunefndar 1. desember 1977 hefur í samræmi við það sem samþykkt var á liðsfundi nefndarinnar rétt eftir 1. desember í fyrra hafið undirbúning að stofnun hreyfingar til að halda uppi þeirri baráttu sem var hafin í fyrra. Stofnfundur hreyfingarinnar verður haldinn miðvikudaginn 4. október í "Bláa salnum" á Hótel Sögu og hefst kl. 20.30. Á dagskrá eru eftirtaldir liðir:

1. Setningarávarp fulltrúa framkvæmdanefndar frá í fyrra, þar sem saman verður dregin sú reynsla sem þá fékkst og gerðar tillögur um skipulag og starf í ár.
2. Stutt ávarp um þær kröfur sem baráttuhreyfing 1. des. er stofnuð á: 1. Verndum sjálfræði Íslands. 2. Gegn erlendri stóriðju. 3. Ísland úr NATO - herinn burt. 4. Gegn heimsvaldastefnu og stríðsundirbúningi risaveldanna, Bandaríkjanna og Sovétríkjanna.
3. Skemmtiatriði.
4. Hópaumræður.

Mikilvægt er að sem allra flestir mæti til þessa stofnfundar, svo að hægt verði að hefja öflugt starf þegar frá byrjun. Þótt tæpir tveir mánuðir séu til stefnu, er það alls ekki svo langur tími, miðað við það starf sem vinna þarf til að gera 1. des að baráttudegi.

Framkvæmdanefnd Baráttunefndar 1. des. 1977.